# Frásaga

## um Misiónera nokkra, og einn Kapara edur Ræníngja-Captein.

Þessi merkiliga frásaga er kroptug og lifandi stadfesting þess allragledilígasta sannleika, hvörsu hinn trúfasti Gud, enn nú á þessum tímum og æfinliga, enda og uppfylla mun sín blessud fyrirheitis ord, vid alla sína sanna dýrdkendur og ástvini, þegar hann seigir: „ákalla mig í neydinni, þá vil eg frelsa þig, og þú skalt vegsama mig." (Ps. 50). Á strídstínum þess franska keysaradæmis, þegar England og Frakkland stríddu hvört uppá annad, til lands og sjáfar, hafdi einn lítill flokkur af missiónerum (edur sendi-prestum), frá brædra-sofnudinum, komid saman í Lundúnaborg. Nú ætludu þeir þó sidar ad skiljast ad aptur, og fara hvör til sinna ýmisligu missións-stada, sem voru hér og þar í þeim fjarlægustu veraldar plátsum, medal heidíngjanna; en á þeim tíma var allrastærsta hætta ad ferdast um sjóinn, vegna þess ad franskir sjóreifarar láu allstadar og rændu í höfunum. Því þegar stríd eru á ferdum medal þjódanna, þá er þad venja ríkja þeirra, sem strída hvört á móti ødru, ad gefa hvørjum sem þess óskar, leifisbréf til ad ræna og rupla, hvar sem þeir géta, skip óvina sinna. En vanaliga er þad illþýdi eitt og

ódáda fólk, sem géfa sig til að þéna á slíkum kapara eður sjóræníngja skipum, og þeir sömu fremja þá þetta ráns-handverk, í skjóli feingins leifis, með stærstu frekju og blygðunarleysi. Vegna þessa voguðu nú ekki missiónerarnir, að taka fyrir sig sjóreisu til fjarlægra framandi landa, án þess að fá engelskt varnarskip sér til hlífðar.

Eptir það þeir höfðu nú leingi beðið þessa varnarskips, kom það þó loksins, og þá gáfu missiónerarnir sig til sjóreisunnar á ýms skip, hvorra sum sigldu til austurs, sum til vesturs, eptir sem stóð á ferðum þeirra. En sú heila tala kaupskipa þeirra, sem, undir varnar-skipanna skjóli, lögðu í einu út af Thems fljótinu hjá Lundún, var 60 yfir höfuð. Floti þessi átti að sigla til Suður-Americu; að eins eitt af skipum þessum, sem nefndist Britannia, átti að sigla til eyarinnar St. Thómas, sem því ekki gat notað sér fylgð skipflotans, nema allt til Madeira; en upp frá því hlaut Britannia að sigla til vesturs, og skilja svo við varnar-skipin, hvað þó skéði með einslags kvíða og óttasemi; því jafnvel þó ekki sýndist neitt vera að óttast á opnu hafi, þá höfðu menn þó frétt nógar sögur af vogun og áræði þeirra frönsku kapara, sem flökkuðu um kring í hafinu, í nálægð við Antillu-eyarnar.

Á skipinu Britanníu voru tveir missiónerar með konum sínum. Þeirra víngjarnliga og auðmjúka hegðan hafði aflað þeim géðþokka hjá kapteininum, svo hann átti yðugliga tal við þá. Margsinnum þegar talið hneig að andlígum efnum, sem sálarvelferðina snerti, hrópaði hann upp: „O hvörsu lukkuligur væri eg, ef eg hefði þvílíka trú (sem þér hafið)! en það stendur

líka ódruvísi á því fyrir mér enn ykkur; eg hefi ekki mikinn tíma til ad þeinkja um þessháttar efni, en ydar embættis köllun særir þad sjálf med sér, ad þid verdid ad helga allt ykkar líf þessháttar þekkingu." Menn báru sig nú ad gjöra hönum þad skiljanligt, ad sérhvör ein manneskja hefdi sína köllun ad vísu, en flestir væru innteknir af hörmuligum villudómi í þeim efnum; med því ad meina, ad madur ætti ad eins, þá tækifæri gjæfist, ad afla sér þessarar þekkingar; þar þó trúin á Christum þann krossfesta væri sú gáfa Guds, um hvörja menn ættu dagliga, med mestu ástundan Gud ad bidja.

Missiónerarnir sögdu hönum og svo, ad heil. ritníng gjördi þad ad skyldu fyrir einn og sérhvörn mann: ad elska Christum af öllu hjarta, og af öllum sínum sálarkröptum; og undireins og menn feingju í sig þvílíka elsku til lausnarans, undireins kjæmist þá líferni þeirra í þad réttu ásigkomulag. Nú gékk reisa þessara manna fyrst um sinn mikid lukkuliga; en þá bar svo til einn morgun mjög snemma, ad kapteinninn, sér til mestu furdu, sá ad segl eitt bar vid loptid, lángt tilsýndar. Stýrimadurinn greip undireins kíkirinn í hönd sér, og bádir horfdu nú beint í sömu átt, og sáu hid sama. Skipsfólkid vard fullt af stórri áhyggju. Kapteinninn sagdi þá til stýrimannsins: „Jóhn, þetta er eitt mikid pragtugt briggskip, en eg verd ekki var vid neitt flagg á því." Stýrimadurinn svaradi: „Herra! rétt í þessu bili, er á því uppdreigid blódraudt flagg; þad er víst ad þetta skip er þad franska reisaraskip, sem heitir sá raudi Jacobíner. Okkar Britannia er töpud. Sjóreisarinn hefur ordid var

vid okkur; og nú setur hann øll segl upp, svo hann med þeim hentuga byr, sem hann hefur, verdur innan fárra stunda kominn á hlid vid okkar!" Allir á skipinu høfdu nú og svo gétad gløggvad þennann litla púnt vid loptid, (nefnil.) þar sem til ræningja skipsins sást, og á allra yfirbragdi mátti rétt sem lesa kvídafulla hugsýki. En sá øruggi kapteinn vildi ekki géfa þeim neitt tækifæri til ad hugsa um ástand sitt og kvída því. Hann gaf þessvegna hværjum einum fyrir sig sitt verk ad vinna á skipinu, og lèt sérhvørn hafa nóg ad sýsla til ad búast vid áhlaupinu. Nú leitudust menn vid ad stýra þessu litla skipi sínu Britanníu til sudurs; en undireins og kaparinn sá, hvad þeir ætludu sér, stýrdi hann ogsvo sínu skipi í sømu átt.

Nú var ekki ad hugsa til ad géta giørdt þessum ræningjum nokkra mótstødu, jafnvel þó menn leitudust vid, ad hafa øll varnarmedøl á reidum høndum. Kapteinninn lét þessvegna alla sem á skipinu voru, hérum bil 13 manns, koma til samans á þilfarinu, og taladi svoleidis til þeirra: „Þarna sjáid þér nú þann rauda Jacobíner, en hér ydar skip; undir hvørs frelsun allt er nú komid. Eg ítreka þessvegna vid ydur þessi Nelsons ord: „England bidur nú eptir því, ad einn og sérhvør bretskur (það er engelskur) madur gjøri hér sína skyldu; og med það sama fel eg ydur Gudi á vald!" En til missíóneranna, sem og svo voru á þilfarinu, sagdi hann: „Mínir vinir! farid þér inn í ydar káhittu, svo þid seúd okkur hérna ekki til hindrunar, og bidjid þar svo Gud fyrir okkur!" Nú þó kapteinninn hefdi ekki hvatt þá til þessa, mundu þeir hafa gjørdt það eingu ad sídur.

Þeir foru þessvegna, nefnil. missíónerarnir, inní

sitt herbergi aptur til baka, til þess ad gjøra þad ad sannarligu bænahúsi. Hér féll nú, þessi litli søfnudur nidur á sín kné, og tilbad hann, sem er drottinn allra drottna, og kóngur allra kónga, hvørjum allt vald géfid er á himni og jørdu, ad hann vildi vyrdast til, ad taka þeirra skip, undir sína heil. varatekt. Midt í þessari bænagjørd uppfylltust þeir allir, af þvílíkum andans søgnudi og fridi, ad þeir ásettu sér ad halda áfram í bæninni, hvørt sem þad heldur gilda skyldi líf þeirra edur dauda, rétt eptir því sem drottins heil. vilja heldst þókknast mætti; þesshâttar brennandi bænir voru nú af þeim í himininn uppsendar. A medan þetta skédi hafdi kaparinn edur sjóreifarinn meir og meir nálægst skipid, og sló sér nú rétt sem í hríng um þá litlu Britanníu, vidlíkt eins og annar grip-fugl, sem flýgur fyrst í kríngum sína bráð, og steypir sér sídan allt í einu ofan yfir hana. En skipverjararnir á Britanníu neyttu á sína sídu allra sinna krapta, til ad géta komist undan kapara skipinu í sudvesturs átt; og þegar ræníngjarnir mønudu þá til ad standa á móti sér, svørudu þeir eingu. En þá rétt allt í einu opnadi sjóreifarinn øll sín fallstykki, og midt í hædanda hlátri og bløkkunar hrópi þess stóra manngrúa, sem á skipi hans var, skutu þeir af øllum sínum fallstykkjum í einu, frá þeirri hlid, sem sneri ad Britanníu. Verkanin af þessum skotum var hin óttaligasta. En á medan láu þeir, sem voru nidri í skipinu ad bidjast fyrir, fram fallnir á sín andlit, med brennanda bænar ákalli til drottins. Nú bidu þeir, sem uppá þilfarinu voru, med ángist og ótta, eptir hinu ødru skotlagi, frá hinni hlid ræníngjaskipsins, hvørri þeir hofdu nú ad þeim snúid. Þessi sama

skothríd fylgdi ogsvo brádliga á eptir, med skélfiligustu skotþrumu dunum; en þó orsakadist hér af eingimi uyr skadi, auk þess sem ádur var. Nú sem ræníngian þóktist vera viss um brádina, ad géta hremmt hana, lét hann leggja út þá krókstiaka, med hvorjum hún hremmast skyldi, svo nú lá ekki annad vid bord, enn ad skipid Britanníu yrdi hans herfáng innan fúrra minútna. En rétt allt í einu vard skipid burtuhrifid, eins og af ødrum hvírfilvindi. Stormur blies ad, og þandi út þaug fáu óskoddudu segl, á skipinu Britanníu. En reisararnir gjordu aptur og aptur nýa skothríd, og þad leit út, ad þeir ætludu sér ad skjóta skipid, svo þad hreint sykki. Skruggur og þrumur af skotum þeirra geingu á allra ógnarligasta hátt; og svo þykkur vard púdur-reikurinn allt í kríngum skipid og á því, ad menn gátu naumast sjed þad sem nærst þeim var, því sídur annad lángt frá. Eingum gat þessvegna annad í hug komid, enn ad skipid væri svo gott sem fallid í hendur óvinanna, en þó kom samt einginn þeirra um bord. Ein forundrunarlig hræring fékk yfirhønd yfir skipinu; þad sneri sér um hríd, líka sem allt í kríng, og mannfólkid sem á því var gat ekkert vid þad rádid, edur stýrt því, heldur høfdu hafsøldurnar og ædigángur sjóarins allt vald yfir því. Høfudsképnurnar høfdu líka sem blandad sér inn í stridid, ásamt ræníngjunum. Skipid vard rétt med makt drifid og hrifid áfram til sudurs. Midt í þessum augnablikum heyrdu menn áleingdar og í fjarlægd nokkur kanónu skot. Menn géta ímindad sér af hvilíkri forundrun ad skipsfólkid á Britanníu vard uppfyllt, þegar þad nú sá, ad kaparinn var horfinn lángt í burtu frá þeim; og skaut nú lokfíns sem eitt

(vínarligt) kvedju skot til þeirra. Hann hafdi nidurfeldt blódflaggid, og stýrdi nú skipi sínu til vesturs. Allar kríngumstædur gáfu þad til kynna, ad hann væri hættur ad ofsækja þá; en hvorsvegna, þad var ollum hreint óskiljanligt. Nú gékk kapteinninn ofan í káhittuna, hvar fólkid var, sem badst fyrir; og þad lá enn nú á knjánum, frammi fyrir Gudi. Hann kalladi þá til þess og sagdi: Þakkir séu Gudi! ydar bæn er af honum heyrd! ver erum frelsadir! Hann féll svo á kné nidur hjá þeim. Med gledi tárum tóku þá þessir brædur og systur ad syngja Gudi lof. Innihald þeirra saungs var þessu líkt: „látum oss syngja lofgjord þeim — er lét oss dásomu frelsi ná; „— færum því honum fórnar seim — fúsir, „þann best er gédjast má! Sú er þá fórnin „sjálfir vér — med sál og líkama honum „færd, — heilog svo verdum herrans kjer, — „med hjartans andagtar varma nærd. Hjart„ad þitt drottinn heyrir oss, — þá hrópum „í trúnni vér á þig; — fyrir hans dygd sem „dó á kross — dýrd sé þér fadir eiliflig!" Sídan geingu þeir allir í einu fram á þilfarid, hvar allt skipsfólkid beid eptir þeim. Nú sáu þeir enn til kapara skipsins, þó mikid lángt áleingdar. Þeir kostudu sér sídan allir nidur á sín kné, og þeir eldstu af brædrunum þokkudu nú drottni af instu hjartans rót fyrir þad, hvorsu honum þóknast hefdi ad vardveita sína elskendur bædi á sjó og landi, og láta þá sjá og reyna eitt sannarligt kraptaverk í sogdu tilliti. Undireins áminntu þeir allann skipsmannsofnudinn, ad þeir skyldu aptur í stadinn offra þeim drottni hjarta sínu, sem þá frelsad hefdi, og taka fyrir sig, ad lísa ekki

eins andvaralaust framveigis, sem ádur, þar þeir mættu allir álíta sig dýru verdi keypptann eigindóm drottins Jesú Christi. Þessi þeirra áminning og bæn hafdi gledilíga verkun, því matrósarnir réttu ad brædrunum hönd sína, og bádu um þeirra fyrirbón til Guds sín vegna, og ad þeir hefdu sig í huga, í því tilliti. Þegar þeir nú loksins, eptir nokkra daga komust lukkulíga til eyarinnar St. Thómas; þá umfadmadi kapteinninn missíónerana, og sagdi til þeirra: „Ydar bæn til Guds hefur frelsad oss; æ bidjid fyrir mér og mínum framveigis!"

Menn géta nú ímindad sér, med hvílíkum þakklætis tilfinníngum til lifanda Guds, ad móti þeim kjæru missíónerum hafi tekid verid, af þeirra andlígu systkynum á eyunni St. Thómas; og þegar hinir adkomnu sögdu nú hinum frá, í hvílíka hættu þeir á leidinni komist hefdu, steig forundrunin yfir þeirra stakliga og óskiljanliga frelsi, á hæstu tröppu. Þessi þeirra frásaga var þeim einhvör hin dýrmætasta röksemd til Guds bænheyrslu, og hvörsu haus nád ekki yfirgéfur sína, sem annars hafa í trúnni ofurgéfid sig hönum, bædi í lífi og dauda. Nú lidu nokkur ár eptir þad þetta skédi, og heimurinn var búinn ad ödlast ad nýu frid aptur, þegar þeim fronsku strídum var slotad. En þeir fjórir missíónerar létu sér þó þann dag, á hvörjum þeir svo dásamlíga frelsudust, minnisstædann vera, og helgudu hann því Gudi til handa, sem ölldúngis stakligann þeim veittann nádardag.

Þegar þeir nú eittsinn voru í því tilliti samankomnir á sögdum deigi, var þeim tilkynnt, ad framandi herramadur vildi sá ad gánga inn til þeirra og komast í kynni vid þá. Þar kémur svo inn til þeirra í húsid

einn hár madur verti, gllskrautliga búinn. Hann er øllum ókéndur, og jafnvel þó andlit hans og yfirbragd væri mikid alvarligt, bar þad samt medframm þann svip, er sýndi einslags frábæra vináttusemi, í hvørri framskinu geitslar þvilíks ljóss, sem berliga heyra þeim til, sem sannir borgarar eru í ríki Guds; hvørt ljós þó fyrir allt of mørgum hulid er. Nú var hann adspurdur, hvør hann væri, er menn hefdu þá ánægju, ad sjá þángad til sín kominn? Hann svaradi: leifid mér fyrst, ad framsetja fyrir ydur eina spurningu: erud þér þad ekki sem, fyrir fimm árum sídan, komud hingad á því engelska briggskipi Britanníu? Þegar því var nú jákvædi goldid, sagdi hann framveigis: vórud þér ekki á leidinni yfirfallnir af einu kaparaskipi? O jú, var svarid; en því spyrjid þér okkur ad því? Hann svaradi: af því eg sjálfur var sá kaparakapteinn, sem ad ykkur sókti. Nú sem hann sagdi þetta, horfdu allir á hann med stórri forundrun. Þá sagdi hann: „sú dásamliga frelsan ydar skips í þad sinn, hefur ogsvo frelsad sálu mína úr Djøfulsins fjøtrum. Eg skal seigja ykkur, ef þid heyra viljid, hvørnig þad gékk til: med stoltum huga áleit eg ydar litla briggskip fyrir góda og vissa bráð handa mér. Já, þad var allareidu komid svo lángt ad eg lét varpa út bátsstjøkum og veidikrókum til þess ad hremma skip ykkar til mín; en þá rétt, í sømu svifum, fékk mitt skip eina þvilíka hræringu, ad þeir menn, sem á krókunum héldu, sleingdust nidur í sjóinn. Eg lét þá annad fólk fara og reyna til á sama hátt ad hremma skip ykkar til mín, en øll vidleitni vard til ónýtis. Nú hugsadi eg mér ad skjóta skipid í grunn, svo þad sykki, þó ekki gjæti eg nád því; en þá skédi þad óheyrda tilfelli:

ad øll skotlogin geingu aldeilis undir og ofann í vatnið, og þegar nú ad púðurs-reikurinn sundurdreifdist af stormvindi þeim, er þá hastarliga hóf sig upp, sáum vér skip ydar áleingdar frá oss sigla til sudvesturs, med þvílíku fljótrædi, sem eg aldrei hefi nokkurt annad skip sigla séd. Og þegar eg nú nákvæmliga horfdi eptir því, sá eg skipid hafa svo morg segl uppi, ad eg gat naumast tølu á þaug komid. Þad kom mér aldeilis svo fyrir sjónir, eins og einn hér af einglum flýgi undan skipi ykkar, midt í því, ad mitt stolta strídsskip væri umkringt af djøflum einum, sem fest hefdu sig vid stýri þess. Sídan gaf eg skipun til strídsfólksins, ad þeir skyldu stýra vestur á vid, og svo komst eg brádliga úr augsýn skipsins Britanniu. Nú yfirféll bædi mig sjálfann, og adra alla á skipinu, rétt ordlaus forundrun. Þad var audséd, ad ein háleitari makt og kraptar hafdi hrífid skip ydvart úr mínu valdi; og eg gat aldeilis ekki skilid, hvornig þad tilgeingid hefdi, og fell þessvegna út úr því í undarliga óró semi.

Nú lángadi mig yfirmáta mjøg til ad komast eptir, hvørja menn Britannia hefdi haft innanbords, og eg fékk þad greiniliga svar þar uppá hjá kapteininum: ad á skipinu hefdu verid missiónerar frá brædrasøfnudinum á eyunni St. Thómas, hvørjir med bæn sinni frelsad hefdu skipid frá yfirfalli þess rauda Jacobiner. Fregn þessi verkadi á mig og í mér med forundrunarligri makt og valdi. Eg hugleiddi, hvørsu ad missiónerarnir væru í þénustu ljóssins herra, en eg aptur á móti í þjónustu myrkranna høfdingja. Allt upp frá þeirri stundu sóktist eg mikid eptir ad komast í kynni vid fólk þetta. Í stuttu máli, eg hafdi einga ró dag né nótt. Eg seldi herskip mitt í Domingo,

og hafdi mig burt til Nordur-Americu. Í New-York heimsókti eg kyrkju eina, sem mér stakliga ráðlagt var að gjøra. Þar heyrdi eg eina predikun út af þessum postulans ordum: „verkid ydar sáluhjálp, med ugga og otta.“ Þessi predikun setti mér ysrid ljósliga fyrir sjónir, allt mitt hørmuliga synda ástand, en gaf mér þó undir eins kjærleiksfulla ávísun, ad eg ekki þyrfti ad ørvænta, heldur skyldi eg midt í minni synda hørmungu, flýa beint til hans, sem er vinur syndaranna, og undir hans krossi sárbidja um fyrirgéfningu minna synda, og um eitt nýtt hjarta, þar Christur hefdi bætt og borgad fyrir mínar syndir, med sínum blóduga krossins dauda. Eptir predikunina heimsókti eg sjálfann predikarann, og opinberadi hønum mitt sálar-ástand. Hann itekadi þá, á kjærleiksfyllsta hátt, fyrir mér, þad sama sem hann hafdi í rædu sinni talad um, og gaf mér þad ráð: ad eg skyldi svoleingi grátbidja þann krossfesta Jesúm, allt til þess og fundid gjæti sannann samvitsku frid — þetta sama gjørdi eg ogsvo af øllu hjarta. Eg hrópadi svo leingi til míns herra Jesú, uns eg undir hans krossi fékk fyrirgéfningu. Nú fór eg aptur í annad sinn til míns kjæra prests og predikara, og hvørsu stór vard nú mín gledi, þegar eg komst ad raun um, ad hann var sjálfur einn af føsnudi þeirra mæhrisku brædra; og eg fékk nú inniliga elsku til hans, og alls þess safnadar, svo eg er nú ordinn, fyrir nád og miskunsemi míns frelsara, af einum kapara kapteini, þvílíkur einn vesæll syndari, sem lofa og vegsama Drottinn dagliga fyrir þad, ad hann frelsad hefur mig og hrifid, eins og brand, út af báli fordæmingarinnar. Þad hefur leingi verid mín hjartans ósk, ad eg feingi tækifæri sjálfur, til ad skýra ydur, elskuligu

brædur og systur! frá þessari minni umvendun, svo eg gæti, ásamt ydur, vegsamad Drottinn, sem svo stóra hluti hefur vid mig gjørdt." Þvílík voru nú þessa manns ord. Þad verdur framar imindad sér, enn med ordum útmálad, hvílíka, rétt sem einslags, vígslu, ad þessi frelsis endurminningar dagur þeirra kjæru missiónera fékk vid þessa frásøgu ádurnefnds mans. Þar sem nú hinn sami madur, sem fyrir hérum fimm árum hafdi stridt undir satans merkjum móti þeim, kraup nú hér ásamt þeim framfallinn nidur, til ad vinna þeim krossfesta eidstaf eilífrar trúfesti, og stód nú upp med þessi sáttmáls ord í sínum munni og hjarta: „vér viljum vid krossinn (Jesú Christi) oss fast halda!" Þegar menn nú hugsa til orda þeirra, sem Jesús sagdi fordum til sinna lærisveina: „hédan í frá munud þér menn veida," þá sjá menn ad þaug rættust hér í þessu tilfelli: Sá sami sem ádur fánga vildi þessa Guds þénara, nefnil. missiónerana, verdur nú sjálfur af þeim til fánga tekinn, og þar med úr satans þrældómi leystur. En missiónerarnir hrópa samt aptur á móti oss og seigja, eins og postularnir fordum: „Þér menn, hvad starid þér á oss, eins og vid hefdum þennann mann, fyrir vorn eiginn krapt og forþénustu leyst úr djøfulsins snørum. Þad sé ydur því kunnugt gjørt, ad hann í nafni Jesú Christi, hvør á Golgata krossfestur var, stendur hér frelsadur og hólpinn" (G. b. 3, 14). Uppá hvør þeirra ord, vér viljum þá svara þeim og seigja: „O hjá þessum sama Jesú, og undir hans krossi, viljum vér líka svo lífa og deya!" O herra Jesú! minnstu þeirra orda þinna, þegar þú fordum sagdir, teiknandi med hvørjum dauda þú deya skyldir: „þegar eg verd frá jørdunni upphafinn, þá vil eg alla til mín draga." (Joh. 12, 32).